ſet vm oſſ/helldur vöktum oſſ vel fyrer
Dióflenum/Þuiad/hafe ſa jlle Ovin ver
ed ſo hreckuiſs/diarfur og drambſamur/
ad hañ þorde ad taka ſig vpp j mote Gu
ds Syne/ þar hann viſſe þo og þeckte
hans Almætte og eilijfan Vijsdom/huad
meinar þu þa hann mune giöra oſſ/ vier
ſem erum aumer/veyker/vannegna/at-
hugalitler og galauſer/þar hann er þuſ-
und ſinnum/ja þuſundſinnum til/klokare
ſterkare og ſlægare enn vier erum ? Þuiad
ecke þarftu ad efa þad/Diófullen er þiñ
Ovinur/ hann finnur eitthuad hia þier.
Aller vier ſem erum ſkijrder j Jeſu Chri-
ſti Nafne/ höfum hans Ord/ og truum
hans Fyrerheitum/þeir hafa aller fyrer-
giefning Syndanna/goda + rolega Sam-
uiſku/ Heilagan Anda/og viſſa Von til
eilijfs Lijfs. Þennan Fieſiod veit Diófull
enn ad vier höfum hia oſs / Þar fyr-
er hatar Diófullen oſſ/hañ añn oſſ hans
ecke/og hann ſtundar Nott og Dag þar
vppa/ad hann take fra oſſ þennan Fie-
ſiod/og felle oſſ aptur j Syndena/og j ei
lijfan Dauda/So ſem þier heyrdud fyr-
er fiortan Dögum/ huórnen þad Sæde
for ſem fiell a Veigen/þar talar Chriſt

ur vm med liosum Ordum/ad Dióþullen kome og take Orded wr Mannsins Hiarta/ so hann skule ecke trua og verda Saalu holpen.

Þar þyrer/ Siertu skyrdur/ og eþ þu truer og treyster a þin̄ Herra Jesum Christum/ þa ver ecke vggalaus/ hyþa ecke ad Dióþullen sie langt þra þier/ Vertu alla tijma bryniadur og vopnadur/ Þuiad Dióþullen helldur ecke kyrru þyrer/ hann veit ad hann mun na nóckru hia oss/ Han̄ veit huórnen oss er hattad/ þennan Fiesiod berum vier [sem S. Pall vottar] j einu Leirkiere/sem bæde er veykt og brothætt/ þar þarþ lijted til ad slaa j sundur med eirn Leirpott. J sama mata erum vier aumar Manneskiur miog veykar/ Holld og Blod er aþ sialþu sier hneigt til Synd arennar/þar þarþ ecke ad taka nema Hlí odpijpu/ vier erum strax reidubuner til ad dansa. Þetta skalltu merkia allt saman/ og vert ecke galaus nie óhræddur vm þig. Tak þetta Epterdæme hier þyrer sioner/ og hyþa vm þinn hag/ Eþ Dióþullen dirþest ad setia sig vpp j mote Guds Syne huórn hann þullvel þeckte/ og visse aþ Ritningunne nær han̄ skyllde koma/ So mætti

tu þullkomlega vita ad hann lætur þÿn ecke vera oþreiſtad/hann þorſæker og leit ar vid ad giöra þier ſkada/þui hann veit vel huada Fieſiod þu heþur med þier/Fy rer ſoddan Voda ꝛ Haſka þa brynia þig vel og vert vid bwen. Eþ þu ætrer þuſ und Gyllene edur meir/ ꝛ ætter ad þerdaſt j giegnum eirn Skog/þar Ræningia er von/munder þu ecke bwa þig til mz Vop num og Veriũ/og þa þier Föruneyte ꝛ allt annad ſem þier er gagnlegt/ſo þu oræntur komeſt wr þeim Skoge? Huar þy rer villtu þa vera hier vgglaus og athu galÿtell vm þig/ Hier ſeige jeg/ſem ecke gillder vm Gotz og Peninga/edur nöckud ſtundlegt/helldur vm eilÿþt Lijþ/ eþ þu miſſer Nꝫad Guds og þellur j hans Reide þra Riettlætenu j Syndena/ þra Lÿþenu og j Daudan.

Enn/ þui verr/ meſtur þiölde Manna geingur þram̃/ſo hann ottaſt eckert/ ſier ſig ecke vm kring/hurar huörke vm Vopn nie Veriur j mote Diöþlenum/Og þ ſkiedur/ þegar þeir eru mitt j bland Morðingia og Reyþara/ þa þikiaſt þeir vera þia beſtum Vinum. Þuiad Diöþullen kañ auduelldlega ad þella þig j Saurlÿþe/A

girnd/Reide/Metnad/ ef þu giefur þig þar til/ ꝛ fylger hans Radum/ So veit nu ſu auma Manneſkia ecke fyrre af/ enn hun hefur miſt ſinn agiæta dyrmæta Fie-ſiod/ huórn Christur heñe hefur vtuegad: Þui ſkalltu nu læra ad vakta þig/ ꝛ gle-ym ecke þeſſu Epterdæme/ ad Diófullen liet vorn Herra Chriſtum ecke ofreiſtadan vera. Vertu þar fyrer vel vidbuen ꝛ bry niadur/ fordaſt Athugaleyſe/ biod ecke þij num Ovin til Gieſta/ ſo ſem være hann Vinur þinn/ forda þier og vakta þig vid hónum: Þetta er nu ſa fyrſte Lærdom.

Nu er þetta j Raun og Sannleika miøg hrædelegt/ ad vier chriſtner Menn hó-fum ſo ſterkan ꝛ mattugan Ovin/ ſa ad er myklu ſtyrkuare/ klokare og ſlægare eñ vier kunnum ad ſkynia/ Þar huert a mo-te er þetta miøg huggunarſamlegt ſem vier lærum j þeſſu Gudſpialle/ huórnen vier eigum ad mæta þeſſum Ovin/ ſo hñ vijke fra oſſ/ huórſu hreckuijs ſterkur og ſlægur ſem hann er. Þu ſier hier med þu órium Vopnum Herran Chriſtur mæter hónum/ og ſlær hann a Flotta. Ecke ott aſt þeſſe Ovinur/ Suerd eda Spiot/ Byſſ ur eda Boga. Þo þu bygder j kring vm

þig

þig Turn/ Mwr og Kastala alldrei so sterkan/ þa gietur hann þo komest ad þi- er/ Þu mætt lætast vera so klokur ꝛ kiæn sem þu villt/ þa er hann þo snidugre og slægare/ So sem liost er af Epterdæmū/ Þar var alldrei sprateknum Herranum Christo Jnöckur Madur so Heilagur/ Fro- mur og Andrijkur/ ad Sathan hafe ecke gietad sleiged hann vm koll? Huörnen vil ium vier þa veria oss fyrer hönum? Hu- örnen eigum vier ad standa hönum a mo- te? Huörnen faum vier hann yfervunned? Huör Vopn/ huöriar Veriur eigum vier ad hafa til þess?

Þad sier þu/ og þad lærer þu j þessu Epterdæme/ Þuiad vor Herra Christur gi örer ecke nema hann setur fram fyrer hn̄ Ord Guds/ þad stingur Dioflulen so j Au gun/ ad hann verdur strax ad snua fra og læta af. Merk þetta/ og vtvega þier soddan Veriur og Vopn/ þa mun þig eck ert skada.

Þu skallt og merkia hier/ ad med þui þar er eckert annad enn Guds Ord/ huar med vier kunnum ad standa Dioflenum j mote/ og reka hann fra oss/ þa vill þad vera miög vodalegt og haskasamlegt/ ef

vier heyrum ecke Guds Ord vel og vand lega/eþ vier merkium þad ecke alvarlega? Og eþ vier jdkum þ ecke Nætur og Daga? Þar þyrer skulum vier haþa æst og Rækt a Guds Orde/þramar enn a nöckru ødru þui sem j Heimenum er/Þuiad huørnen vilium vier ellegar standa Dióþlen um j mote? Huørnen vilium vier varduei ta vorn Fiesiod sem oss er veittur og gieþ en þyrer Christum/eþ ad vier høþum ecke Suerded Andans j Høndum vorum/ so sem S. Pall neþner þad/Eph. 6.
S. Pall aminner og so j þyrr neþndum stad/ad Bænen skule ei rnen vera þar mz/ Bidied[seiger hann] jduglega j øllum aliggiande Naudsynium/ med Bænum og Aminningum j Andanum/ og vaked þar til med allre Stadþeste + Akalle/þad er/ Vered ecke athugalitler/ vggalauser/ oþræddir vm ydur/ lijka so sem Dióþullen være langt j þiærlægd þra ydur. Þegar Dioþuren veit ad aller soþa/ þa Brytur hann Hwsed/og giører þ hann ætlar sier/ Enn eþ Menn vaka/ þa lætur hann ecke verda vart vid sig/ Lijka eins þa eigum vier ad vera vidBwner vid Dióþlenum/so þa ecke/helldur vaka + Bidia/ haþa ætijd
Guds

pallega

Guds Ord/þad rietta Suerded j Hende/
þa vinnur Diöfullen ecke a vid oss.
Og lijka so sem Sathan lætur ecke af/
þo hann vinne ecke a med eirne Freistne/
Hann kiemur med adra og hina þridiu/so
skulum vier ecke vænta oss Huijldar eda
Fridar nöckurn tijma hier j Heime. Jafn
snart sem ein Freisting er vmliden/og O-
vinuren fær ecke þar med framgang/þa
kiemur hn̄ med adra/so vier verdum mæd-
der/þreytter/og hann fær oss so vm sijd-
er sigrad. Þar fyrer er hier ecke annad a
ferdum enn Strijd og Barætta/Vier meig
gum alldrei læta Suerded af Hende ko-
ma/Ef vier leggium þ fra oss/þa ver-
dum vier slegner/og þad stodar ecke par/
þo vier höfū vared oss vm stundar saker.
So skulum vier nu hugleida vel Herrans
Christi Epterdæme/ad med þui Diöfull
en sette sig j mote hönum/og hlifde hön-
um ecke/þo hañ visse ad hañ munde ecke
Sigur vinna a Syne Guds/þa mun hañ
ecke hlijfa oss/vier sem erum skijrder j Chr
isti Dauda/og höfū fyrer Skirnena Syn
danna Fyrergiefning/og Von til eilijfs
Lijfs/Hann vill og so reyna sig a oss/
vier sem erum syndugier/veyker og van-
 mætt-

mættugier / og ecke vel bryniader nie bwn er vid soddan Strijde. Þar næst skaltu og so læra / huar med þu skallt veria þig + slæ þra þier j soddan Barættu / huad Vopn þu ætt ad haþa / sem er / alleinasta Guds Ord / tak þier þad þyrer Hendur / riettu þig þar epter / og hallt þig med stödugre Tru / og læt huörke Diöþulen / ecke helldur þitt Hiarta / eda þijnar Hugrenner koma þier þar j þra. Þa ertu riett christen / og þa muntu vinna Sigur / lijka so sem Christur vann hier. Þuiad þessar þriar Freistingar / med huörium Diöþullen þreistade hans epter þiörutijge Daga / þær eru so sin̄ almennelegur Capitule / hu ar epter Diöþullenn vor alla tijma þreistar / og huörn hann jdkar / og huar epter hann hegdar sijnum Freistingum.
1 Fyrsta Freisting kiemur aþ Neyd + Fatækt / ad þar er ecke Braud þyrer Hende / þa Christū hungrar / Þessare Neyd stryr Diöþullen so / ad hann vill þad sie ein Bivijsing / ad Gude sie jlla vid hann / og ecke medkienne Gud hann ad vera sinn Son / ellegar liete Gud hann ecke bresta Braud. Þesse Freistne er miög almenneleg / Huör sem lijdur skort a Mat + Atuinnu / eda

hefur Sott og Siukdom a Lÿkama sÿ-
num/ hann hefur þessa Hufan opt og o-
fialldan/einkum þa hann hufar vm ad-
ra Menn sem noglegt hafa til + eru heil
brigder vppa Lÿkaman/ þa koma sodd-
an Huxaner/ Gud er reidur vppa þig/ell-
egar geinge þier betur. Hefder þu eï sty-
gt Gud med þeirre og þeirre Synd/ þa
hefde hann ecke lagt soddan Kross og O-
luckn vppa þig/hañ hefde giefed þier He
ilsu og Heilbrigde/ hann hefde giefed þi
er Biörg og Næring + sÿna Blessan/ Eñ
nu er þad vte/ hann hialpar þier ecke/hũ
skeyter ecke vm þig/ þu þarft ecke ad vo
na nie vænta vppa hañ.

Soddan eiturlegũ Huxönum vm Gud/
vill nu Diöfullen jnnblasa j Herrans Chri
sti Hiarta. Enn huörnen ver Herran Chr
istur sig ? Hann seiger/Maduren lifer ecke
alleinasta vid Braud/ helldur vid huört
þad Ord sem fram geingur af Munne
Drottins. Merk þetta Andsuar/ og ver
þig med þui/lÿka sem Christur/ Hugga
þu Hiarta þitt/ og vnderuÿsa þui ad þ
giefe ecke so jllũ Huxönum Rum hia sier.

Vor Herra Christur setur hier fram
tuo Hlute/ Fyrst þad/ ad opt, take Gud

Braud og adra Lÿfs Næring fra ſÿnum Bórnum/ſo ſem nu er ſkied hia oſſ/þ er/ Gud lætur ſÿna Chriſtna lÿda Aarmod ꝛ Fatækt/og allra handa Motgang og O lucku/ þad ſkalltu fyrſt merkia/ Þar næſt ad enn þo Gud take j burt Braud ꝛ Næring/ þa hafa þo hans Chriſtner menn þ gagn/ ad Lÿfed Mannſins er ecke komed j Braude eda Matnum/ helldur j Guds Orde/ fyrer huórt Lÿfed er Mañenum gi fed ꝛ varduerteſt.

Þu ſeiger/Huórnen ſkal jeg þad ſkilia? Andſuar/ Þu ſkallt ecke reikna eda virda Guds Nad ꝛ Vinattu epter þui ſem Lÿ kamanum vegnar hier a Jórdunne/ Þad er vel ſatt/huórium ſem Gud giefur goda Biórg og Næring/Heilſu og Heilbrigde/goda Kuinnu ꝛ hlyden Bórn/gott ærlegt Nafn og Rykte/og annad fleira/ſa hefur þeiged veglega Gafu af Gude/hu ar fyrer hann ætte Gude ad þacka/og ſia vel og vandlega til/ ad hañ fare vel þar med. Enn ſlÿkt er ecke þad hellſta ꝛ beſta huar med Gud audſyner ad hann ſie oſs Milldur og Myſkunſamur/hañ giórer þ med ódrum hætte myklu haleitara ꝛ veglegra/Sem er/ad hañ giefur oſſ ſiñ Son

og j

og j synu Orde lofar hann oss eilyfu Lyf
fe. Þetta skalltu alyta og hugleida/þeg
ar þu villt vita ef Gud er þier Nadugur
og Myskunsamur: Ef þu hefur þetta/
þa kann þig eckert ad skada/þo þig bre-
ste Braud/Pening Heilbrigde ꝛ huad aññad.

Huar fyrer? Þuiad hitt annad þad er
allt saman ecke nema stundleg Neyd ꝛ Fa
tækt/Enn þar j mote þa hefur þu j Gu
dz Orde þad Eilyfa/yferfliotanlega/og
þad rietta Lyf/ Þuiad Guds Ord þad
lygur ecke ad þier/ þad suykur þig ecke.
Þar fyrer/ lyka so sem þu matt dæma
þann Mañ opacklatan darlegan ꝛ heim
skan/sem hefur mørg þusund Gyllene/eñ
lætur sier ofmiøg fyrerj þikia ef hñ miss
ser hinn minsta Pening þar af/ Lyka so
er sa Madur j Raun ꝛ Sannleika opack-
latur heimskur og aumur/sem ecke meir
og framar huggar sig vid Guds Ord og
hans Nadar Giæsku/ helldur enn vid
Gotz og Peninga/Heilsu og Heilbrigde/
eda huad annad vera kann.

So verdur nu Diøfullen sleigen/og hñ
hlytur ad vykia j burt/þegar þu tekr ecke
epter hans Ordum/huad hann setur fy
rer þig vm þessa stundlega Hlute/sem Lyf

kaman

kaman a hræra / helldur epter Guds Orde
+ eilijfu Lijfe. Og þetta lærum vier all
einasta af Guds Orde / enn huørge annar
stadar.
2 Sem Christur hefr nu j þennan mæta
burt reked Diöfulen / + vijsad hönum fra
sier / þa reyner hann enn til med ödrum
hætte / Hann setur hann vppa Bust Must
eresins j Jerusalem / og seiger hann skule
steypa sier af fram / þui Gud vardueite
hann fyrer sijna Eingla / med þui hann er
Mijskunsamur / + þetta beuijsar hann mz
Ritningunne / af þeim 91. Psal. Enn vor
Herra Christur mæter hönum med Ritnin
gu / og seiger / Skrifad er / þu skallt ecke
freista Guds / et cet.
Þesse Freisting er og so miög almenne
leg / ad Diöfullen vill koma oss til ad gi
öra j mote Guds Orde og Befalningu.
Þuiad lijka so sem hann med fyrre Freist
ingunne villde beuijsa ad Gude være jlla
vid oss / og villde ecke giefa oss stycke Br
aud eda mola Matar. So tekur hann nu
annan slag / þuert a mote hinum fyrra / +
giörer Gud fyrer oss so Nadugan + Mill
dan / so sem ad ecke yrde hann reidur / + lij-
ka sem hann liete sier allt þ lijka + lynda

ſem vier heyrdunſt ad.
Enn hvilijkan ſkada þeſſe Freiſtne giö-
re[þui verr] þ er opmiög openbert. Meñ
eru vr mata athugalauſer/þeir lata aud-
velldlega tala vm fyrer ſier og koma ſier
a talar. Þegar Satan vppuekr Meñena
til Agirndar/Saurlijfis/Drambſeme/og
annara Synda/et ct/ þa giörer hañ þær
Synder fyrer þeim ſo litlar/liettar + lijt-
els verdar ſo ſem Graſtra / eda ſo ſem
Fiödur. Huör hann nu ecke kann ad vera
ia ſig med Guds Orde/ og rietter ſig ecke
epter þui/huad Gud hefur boded og bañ
ad j ſijnu Orde/og lætur fella ſig j Syn
dena/ſa mun finna vm ſijder/ad Synden
er ecke ſo liett/hun verdur ſo ſem eitt Bly
fiall/huört eingen kann ad bera eda vpp-
taka. Dæme höfum vier af Cain. Hön-
um þotte lijtels vert ad ſla ſinn Brodur j
hel/ Enn þegar Synden var giörd/ þa
viſſe hann ecke huar hann ſkyllde hafa
ſig/ öll Veröllden var hönum þa oflijtel
vegna hans Syndar.
Lærdu þar fyrer hier/ad nær Diöfull-
en vill j mote Guds Orde leida þig j Sy
ndena/og giörer hana fyrer þier lietta ſl
etta + lijtels verda/þa tru þu hönũ ecke/
Seigdu

Seigdu eins og Christur/ Þu skallt ecke freista Drottins Guds þijns/það er/Þu skallt vakta þig/ giördu ecke þ sem Gud hefur fyrerboded j sijnu Orde/huörsu lijt ed eda lijtels vert sem þ þiker vera. Enn vilier þu ecke vera hlyden/og þu villt voga það ad giöra það minsta sem fyrerboded er j hans Orde/ þa fordiarfar þu sialfan þig/So skiede Enn Moder vorra allra/ Henne þotte lijtels vert vm eitt Eple/þo hun æte af þui/Enn það var ecke so sem hun meinte/Gud hafde strein gelega bañad þ/ꝫ af þui þau voru Gude ohlyden j þessu/ þa felldu þau yfer sig Guds Reide og eilijfan Dauda. So mun það ganga öllum þeim sem freista Guds það er/þeir sem ecke vilia blijfa vid Guds Ord/ og giöra það nockud sem Gud hefur fyrerboded.

3 Su þridia Freisting er þesse/ ad Diöfullen eggiar Herran Christum a ad tilbidia sig/ þa vilie hann gefa hönum öll Rijke Jardarennar. Enn Herran Christur ver sig ecke alleinasta med Ritningunne/ helldur bydur hann Diöflenum ad packa sig og fara j burt.

Þesse Freisting er ꝫ miög almenneleg.

Margur syndgar a mote Gude og hans Orde vegna Audæfa og Peninga. Huad mórg þusund af Munkum/Nunnum/Bisk upum/Canickum/ Prelatum og Prestum mundu giarna og vel viliuglega medtaka Euangelium/ ef þeir ottudust ecke ad þr skylldu missa þeirra Rentu + Inntekter? Huórsu marger eru j Konga og annarra stor Herra Hoffgórdum/sem giarna mundu heyra Euangelium + neyta Sacramentis epter Christi Innskickan/ef þeir vissu þeir skylldu ecke missa Vinættu sina Herra + koma þar fyrer j skada? En af þui þeir sia Veralldarennar Rijke + hafa þar til Sinne/þa lata þeir Christum og hans Euangelium fara sinn veg/ og til bidia þann skamlega Diófull.

Huórnen eiga nu Menn ad hindra þessa Freistne og standa henne a mote? Eins + Christur giórer hier. Hann seiger/ Skrifad er/ Þu skallt tilbidia Drotten Gud þinn/og þiona hónum alleina. Pad er/ Vakta þig/ad þu fyrer Gotz + Peninga giórer nóckud Gude j mote/og stygger hann ellegar mun Hefnd og Reide koma yfer þig/ Helldur skalltu tilbidia Gud og þiona hónum af Hiarta/vænta epter hans

Blessan/og þiggia med Packlæte þad hñ giefur þier/Eñ þad Gud ecke giefur/þa læt þier þad vel lijka/ᵹ forda þier Synd denne/Þui Gud huòrium þu þionar/huòrn þu akallar/hann veit betur huad þier er nytsamlegt og gagnlegt enn þu sial fur. Huòr sem so hegdar sier og breyter/ a þeim mun Dioflullen önguan sigur viña helldur enn hann vann a Christo/ Þuiad Guds Ord er Guds eilijfur Kraptur.

So siae þier nu huad naudsynlegur og gagnlegur Lærdomur oss verdur fyrersett ur j þessa Dags Historiu/ ad vier sieum alla tijma vidbuner/og med Guds Orde bryniader ad standa j mote þessum Ouin Dioflenum sem vor freistar/ og huòrke Nott nie Dag lætur oss hafa Frid nie Ro ad hann kunne oss yfer ad vinna/ᵹ koma oss til/annad huòrt ad hyra ecke par vm Gud/ellegar ad vijkia fra hans Orde og Bifalningu/ og akta Gotz og Peninga/ framar enn hann.

Jafnframt þessum Lærdome/þa eigum vier ecke ad gleyma þeirre Huggun/ ad þo so sie/ad vier hliotum ad beriast vid so volldugan og sterkan Ouin/þa hòfum vier þo þessa Huggun j Christo/ad vier

vier vitum ſa ille Ovinur er alla reidu ſle
igen og yꝼerunnen/ Þar ꝼyrer þurꝼum vier
ecke ad hrædaſt hann/ helldur ſtanda hǫn
um j mote diarꝼlega/ ecke aꝼ voru̅ Hrauſt
leik til/ helldur vegna vors Herra Jeſu
Chriſti/ huǫr ed hann yꝼervann/ og Baud
hǫnum Burt ad vijkia. J þeſſum Sigre
þa ſkulum vier haꝼa vora Huggun/ taka
oſſ ꝼyrer Hendur Guds Ord/ Bidia Gud
vm Styrk og Viſku/ ꝛ ꝼyrer Chriſtum vo
na og vænta/ ad vier munum þa hañ ſig
rad/ þa munum vier verda ſæler og holp
ner eilijꝼlega/ Amen.

## Bænen.

DRottenn Gud Himneſkur Fader/ Med þui ad vor hinn argaſte Ovinur Dioꝼullen/ hann ſitur vm oſſ alla tijma/ og geingur j kring vm oſſ/ ſem eitt glepſande Leion/ og leitar vid ad vppſluka oſſ/ Þa bidium vier þig ꝼyrer þinn Bleſſada Son Jeſum/ ꝼyrer hans Dauda og Pijnu/ ad koma oſſ til Hialpar med Nꝼd þyns Helga Anda/ og med þynu Orde ad ſtyrkia vor Hiörtu/ ſo Andſkoten ecke ꝼae Valld a oſſ/ helldur ad vær mættum alla tijma bihallda þinne Naad og hia þier verda Sæluholpner eilijꝼlega/ Amen.

# Annan Sunnudag j Føstu Euangelium Matth. XV.



JEsus gieck burt þadan/ og foor j Lands alfur Tyri og Sydonis. Og sia þu/ ad Chanuersk Kona gieck vt af þeim sømu Takmørkum/ kallade og sagde/ Herra/ Sonur Dauids/ Myskuna þu mier/ mijn Dotter kuelst jlla af Dioflenum. Og hann suarade henne ønguo orde. Nu hans Læresueinar geingu þa til hans/ bædu hann og søgdu/ Lattu hana fara/ af þui hun kallar epter oss. Enn hann suarade og sagde. Jeg em ecke sen-

dur/ nema til Fortapadra Sauda/ af Hwse Israels. Enn hun kom og til bad hann seigande. Herra/hialpa þu mier. Enn hann suarade henne z sagde. Þad er ecke gott ad taka Braudid Barnanna/ og kasta þui fyrer Hundana. Enn hun sagde/ Satt er þad Herra. Enn þo eta Hundarner af Molum þeim/ sem detta af Bordum Drottna þeirra. Þa suarade Jesus og sagde til hennar. Þu Kona/ mikel er þijn Trua/ Verde þier so sem þu villt. Og a þeirre sømu Stundu vard hennar Dotter heilbrigd.

J Þessu Gudspialle hoࠀfum vier eitt merkelegt Epterdæme/ af huórin vi er lærum / huórnen vier skulum skicka oss nær hellst sem vier viltum riettelega bidia z verda Bænheyrder. Og a slijkum Lærdome liggur oss mióg storlega/ af þui ad j Freistingónum z Motgangennm þa hófum vier óngua adra Huggun enn þessa. Og med þui ad Diófullen forsómar sig ecke/ so sem þier heyrdud fyrra Sunnudag/ z ef hann fórde ad þreista

 sta

fra vors Herra/ þa mun hann ecke hlijfa
oss vier sem erum vanmættuger og veyk-
er/ og kunnum snart ad hrasa og falla/
Þar byrer liggur oss stor magt a ad hafa
Rad hins Heilaga Pals/og taka Sverd
Andans/Guds Ord/og sla Diöfulen fra
oss med þui/Þar næst ad læra vel þa List
sem i þessa Dags Gudspialle verdur oss
kiend/ so ad vier ecke alleinasta blijfum
stadfaster i Freistnenne/helldur ad vier by-
rer Bæn og Akall til Guds mættum fa
Hialp og Huggun.

Þesse Kuïna hafde eirn þungan Kross
og Motgang/ ad hennar Dotter var set-
en af obreinum Anda/ Þuiad ef Fader +
Moder kuña ecke ad fa þyngra Kross eñ
þennan/ þegar þau sia þar vppa/ad þr
ra Börn andast/þa er þesse Kross + Mot
gang: þo so þungur + sar/ ad þad være
Forelldronum Hiartans Glede/ad Börn
en mættu deyia/ helldur enn ad kueliast +
þijnast so af þeim vonda Anda. Þau mū
du helldur þusundsinnum vilia vera daud
helld: enn ad sia vppa þa Sorg + Neyd.
Soddan Pijnu og Plagu hefur þesse fa-
tæk Kona lided/ hun rekur hana vt af
Hwsenu/ strax hun fornemur ad Herran
Jesus

Jesus er þar nalægur/hleypur epter hønum/og Bidur hann vm Hialp/Seigande/ O h Herra þu Sonur Dauids/Myskunna þu mier/mijn Dotter kuelst jlla af Diøfl enum. Hun talar ecke mørg Ord/enn þau koma af sorgfullu Hiarta.

Þetta er oss nu sett til eins Epterdæmes/ad vier skulum eins lijka giøra/ Nær oss kiemur Neyd og Motgangur ad Høndum/þa skulum vier Bidia af Hiarta/ + leita Hialpar hia vorum Herra Christo enn ecke annar stadar. Þui hann er þar fyrer komen j þennan Heim[sem Johannes seiger]ad hann vill nidur briota Diøfulsins verk/og hialpa oss/Og hier brestur ecke neitt annad enn þad/ef ad vier villum ecke slijkt þiggia/ og af Hiarta til vor medtaka/ og setia vora Neyd fram fyrer hann med Bæn vorre og fullu trunadar Trauste:

Enn hier meigum vier aller saman jata og vidurkienna vora Eymd og vorn Blijndleika/ Þuiad vier erum af Synden ne so miøg spillter og fordiarfader/ ad vier kunnum ecke ad sia nie skynia vora ei genlega Eymd og Neyd. Mestur fiølde Manna gnar so framm/ad hann hyrar ecke

þar vm Bænena / nema huiad eins ad Madur verde siukur / eda vante daglega Atuinnu/Þetta hölldum vier mestu Neyd hun kiemur off til ad grata og syta/hun lætur vpp Munnen a off/ so ad vier Berū ofs jlla. Nu er þad vyst + satt/ad Chri stur Bydur ofs sialfur ad Bidia vm dagle gt Braud/og mz vorre Bæn ad leita Bl-essanar hia Gude. Enn j þui fõrum vier miög villt/ad vier hölldum Atuinnuley-se edur Siukdom Lykamans/ eda annad þ þetta stundlega Lyf ahrærer fyrer þa stærstu Neyd og Naudsyn/ Med þui ad þesse Neyd er hin minsta/og margt ann ad liggur þyngra a ofs/huar vm vier ei gum daglega ad Bidia/ vm Guds Hialp og Hiastod.

1 Þui skal nu vor fyrsta Bæn og stærsta Naudsyn vera þesse/ ad Bidia Gud /ad hans Nafn verde Heilagt/þ er/Ad Gud vilie forda ofs fölskum Lærdome/ giefa goda Kienneffedur/og hallda Guds Ords Þionustugiörd vid magt/A slyku liggur ofs meire magt enn a lykamlegre Atuin-nu/ Þuiad nær sem þetta vantar/ad Gu ds Nafn Helgast ecke/+ ecke er riettelega kient og predikad vm Gud/þa er j Voda kom-

komed/ecke alleinasta vegna þessa stundlega Lijfs/ helldur er þa og vtgiórt vm þad eilijfa Lijf/ so Menn eru þa j Syndenne og Daudanum/og hafa ecke nöckrar Hialpar framar meir ad vænta. Þar fyrer setur Herran Christur þessa Bæn fyrst ad Guds Nafn meige verda Helgad hia oss/Og alldrei skulum vier læta nöckurn þann Dag hia lijda/alldrei so hætta eda vppstanda/alldrei fara so til Bords eda fra/ ad vier ecke ætijd og yfer alla Hlute fram̄ Bidium þess af Hiarta/ad Guds Nafn mætte Heilagt verda.

2 Þar næst skulum vier Bidia/ ad Guds Rijke kome til vor/þad er/Ad Gud fyrer sinn Heilaga Anda vilie vppuekia ⁊ giöra Orded lifanda j vorum Hiórtum/so þad bere Auóxt hia oss/og ad vier kynnum j allskyns Neyd ⁊ Morgange ad hugga oss þar vid/ Vppa þad ad Dióflenū verde hamlad ⁊ voru eigen Hollde/ so þr styre oss ecke nie stiorne/helldur sa Heilagur Ande/Þetta er og so miög naudsynlegt og hier vm Byriar oss a huórre Stundu ⁊ Tijma ad Bidia myklu framar en̄ vm dag legt Braud. Þuiad nær hellst Heilagur Ande hann yfergiefur oss/ og stiornar oss

ecke/ þa heþur Dioþullen Rwm og plæts hia oss/ og ad skada oss bæde a Sælu ⁊ Lijkama.
3 Lijka eirnen þa er Þörþ og Naudsyn ad vier Bidum Gud/ ad hans Vilie mæt-te verda/ so a Jördunne sem hann er a Hi-mnenum. Þviad Dioþullen og Heimuren haþa jllt j Sinne/ þeim hlytur Gud ad hamla/ ellegar þar geingur ecke vel til. Vier þurþum og þess vid/ ad Gud hind-re og hamle vorum Vilia/ ⁊ vppueckie oss til ad giöra sinn Vilia/ vera jdner og a-stundunarsamer j voru Kalle og Embæt-te/ og j öllum Hlutum riettum oss epter Guds Orde og hans Vilia.
4 Og aþ þui ad Dioþullen lætur ecke aþ ad blasa oss j Brioft Syndum ⁊ Glæ-pum/ Heimuren ladar og lockar oss eirnen þar til med vondum Epterdæmum/ og vort eiged Holld og Blod er þar hneigt til/ ad rasa og þalla/ þa er storlega naud-synlegt ad bidia vm þyrergieþning Synd-aña/ ad Gud vilie ecke reikna oss þær til.
5 Og einkannlega liggur oss Magt a þui/ ad þegar vier erum þallner j Synd-ena/ ad vier liggium þa ecke leinge j hen-ne/ helldur ad Gud vilie mz riettre Jdran
og

og sannre Tru leida oss þar j fra. Þuiad
huör hann liggur j Syndenne/ hann heyr
er Daudanum til: Og med þui vier stön-
dum daglega j soddan Voda og Haska/
þa er Naudsyn ad vier daglega Bidium
Gud ad leida oss ecke j Freistne/seigande/
Vor Gud/ læt oss ecke vera einsäla þeg-
ar vier freistunst/ vier erum miög veyker
og vanmættuger/og kunnum oss ecke sial
fer ad hialpa/ Riettu þar fyrer ad oss
þÿna Hialpræðis Hönd/ og leid oss ur
Freistnenne/ og læt oss ecke i henne for-
diarfast.
6 Ad sÿdustu/ Med þui ad vier eigum
eitt siñ ad deyia/ + oss liggur stor magt a
ad Bidia Gud vm farsællega Daudastūd/
ad hañ vilie þa vera hia oss med sÿnum
Heilaga Anda/ hugga Hiörtu vor j all-
skyns Neyd/og einkañlega a vorre Dau-
dastundu / og leida oss j riettre Tru til
Guds Sonar/ og fra þessu Lijfe til ei-
lijfs Lijfs. Sia/þetta eru þær Greiner/
vm huöriar oss liggur meire magt a ad
Bidia eñ vm daglegt Braud/ Þar fyrer
skulum vier venia oss þar til/ ad Bidia
vel og rækllega vm þetta/eñ gleyma þo
ecke þar jafnframt mz daglegre Atuinu.

Vm þetta heþ jeg viliad ſo haþa ſtutt lega talad/med þui ad vier ſkulum nu ræ da vm Bæna akalled/ ſo ad huør chriſten Madur vite/huar vm vier eigum ad bid-ia/og haþa ecke alleinaſta Vmhyggiu þy rer daglegu Braude og Atuinnu/ helldur læta adrar hærre og ſtærre Naudſyniar ganga oſs til Hiarta/huóriar ecke gillda þetta ſtundlega Lijþ/ helldur þad eilijþa. Þegar þu veiſt nu þyrſt huar vm þu ætt ad bidia Gud/Sem er/vm Helgan Gud-legs Naþns/ vm hans Rijke/ og ad hans Vilie verde/þa mættu bidia þarnæſt hid þyrſta vm daglegt Braud/vm Syndanna þyrergieþning/vm Frelſan þra Freiſtings-onum/vm ſælugan Aþgäg + eilijþt Lijþ. Þa ſkalltu þramueigis læra/huórnen þu eiger riettelega ad haga þier og hegda i Bæneñe/þ verdur oſs kient i Eptterdæme þeſsarar Cananerſku Kuiñuñar.

Þier heyred þyrſt/huórſu ad hun hley-pur epter Herranum Chriſto / + gieþur hó num þad rietta Naþn/kallar hañ Dauids Son/þad er/ hann ſaña Meſsiam/þy rer huórn Gud heþur loþad ad veita Hialp óllum Heimenum/og ad huór Madur ſkyllde hugga ſig vid hans Hialp/i hu

órſkyns Neyd og Motgange/ſtundlegum eda eilijfum. Þeſſu Nafne ſkulum vier j önguan mæta gleyma þegar vier bidiũ. Þuiad ef vier holldum ecke Chriſtum ad vera þann/fyrer huorn Gud lofar ad veita oſs alla Nꝣd og Myſkun/ þa er vor Bꝣn til einſkis. Þar fyrer kienner Chriſtur ſijnum Læreſueinum[þegar hañ amiñer þa ad bidia]ad þeir ſkule bidia Födurenn j ſijnu Nafne/þad er/hafa þ Trauſt þa Tru/ ad Gud mune fyrer hans ſkulld Bꝣnheyra oſs/og veita oſs allt þad ſem oſs er gagnlegt.

So byriar nu þeſſe Kuinna ſijna Bꝣn riettelega/og hun ſtendur faſt þar a j ſijnu Hiarta/ ad þeſſe ſie ſa Madur/epter huórium Gydingar vꝣnta/og vm huórn Spamennerner hafa ſpꝣd/ad hañ mune hialpa öllum Heimenum/ Þar fyrer fer hun til j ſoddan trunadar Trauſte/ bidur og ſeiger/Myſkuna þu mier/ Hun ſetur og fram ſijna Naudſyn/ ſeigande/Mijn Dotter kuelſt jlla af Dióflenum. Þetta er nu ſu Bꝣn/j huórre önguu er gleymt/og huar eckert liggur epter/ enn þo hun ſie ſtutt ꝛ faord/Eñ huórnen fer ꝛ Vor Herra Chriſtur heyrer vel huad hun ſeiger/eñ

hann

hann vill ecke suara. heñe einu Orde/ hñ geingur sinn Veg/lyka so sem hañ hefde ecke heyrt þad hun talar.

Þesse Freisting er nu ein af þeim/ sem opt kiemur fram/þegar Madur Bidur og akallar Gud riettelega. Og med þui ad vor Bæn er eitt Heilagt Verk/ huört ad skiedur Gude til Dyrdar/ þar fyrer hatar Diöfullen Bænena og stendur henne æfenlega i mote/ og hindrar hana/Þar med og eirnen þa er Vantruen so rootföst i voru Hiarta/ad vier getum henne ecke burt hr undeð. Þar fyrer geingur þad eins til mz oss og þessa Kuinnu. Hun Bidur af Hiarta/ og vonar ad hun mune verda Bænheyrð. Enn þegar vor Herra Jesus ansar henne öngun Orde/ og lætur so sem hañ heyre ecke til hennar/þa hefur hun ofrig anlega haft þessa Hiartans Sorg og Hugan/ Awuñ/ þad er til einskis/hñ vill ecke hialpa mier/ hañ vill ecke læta mijna Ne yd ganga sier til Hiarta.

Þesse Freisting er miög almenneleg/ og alltijd hin fyrsta þegar Naudstödd Harm þrungen Sorgbiten Hiörtu taka fyrst til ad Bidia/ad Vantruen hreyfer sier i Hiar tanu/og seiger/ Þad vill ecke hialpa/ þ

er porgiepins/ þu matt vænta ad þesse Olucka og Motgangur varer leinge/ þu þarpt ecke ad vænta Hialpar nie Huggun ar. Soddan Huganer koma ap Vantru/ huór ad er inngroen ap Nætturunne j all ra Manna Hiórtū/og porhindrar storlega vora Bæn. Eñ vier skulum giöra so sem þesse Kuinnan giörde/læta ecke ap/hell dur blijpa vid Bæna akalled/og vita/ad þad er Guds Vilie Bod og aluarleg Bi-palning/ad vier eigum ad bidia/og trua ad vier munum verda Bænheyrder. Þañ en þa eigum vier med Guds Orde eñ ód-ru önguu ad stāda j mote þessare Freistne.

Sem ad Herran Christur suarar henne nu huórke ja nie nei/þa para Lærefuein-arner til/og kienna j brióst vm þessa pa-tæka Konu og bidia þyrer hana/Herra/ seigia þeir/ skil þig vid hana/ þui hun kallar epter oss/Sem þeir villdu so seig ia/Pad er ecke Vane þinn/ad þu lætur so kalla epter þier/þu ert alla tijma reidu-buen og godviliadur til ad hialpa/huar þyrer villtu þa nu og ecke giöra so ? Vor Herra Jesus suarde þeim/ enn þo miög hardlega/Jeg [seiger hañ]er ecke sendur nema til glatadra Sauda ap Hwse Jsra-el/

el / Pad er þessarar Meiningar / Hun er ein heiden Kona / eg heþ ecke þar med þa-na / være hun aþ Gydinga Kyne þa skyll-da eg hialpa heñe. Þetta var þungt And suar / huórt su goda Kona ogiarna heyr-de / z þ heþur henne ecke liett leiged.

Og þetta er ónnur Freistne sem opt kie-mur og hindrar vora Bæn / ad vier huxũ þ Gud haþe ecke eins Siñe til allra Man-na / Værum vier so Heilager sem S. Pet-ur S. Pall / þa munde Gud vera oss næd-ugur og hialpa oss / enn hañ heþur annad Hiarta til vor / et ct. Þetta er eiñ hrædi-leg og haskasamleg Freistne / huór ad er Gude til Vanheidurs og Smanar. Þui-ad vid skulum ecke so huxa vm Gud / ad hann mune vera ódru viis Sinnadur vid mig enn añan / Þuiad / so sem S. Pall sei-ger / Gud vill ad aller Menn skule verda Saluholpner / Og so sem þar stendur Jo-hañis 3. Cap. Gud elskar Heimen / þad er / Hans Hiarta er vinsamt æstwdlegt / gott og Giæskuríkt vid alla Menn / Hañ vill giarna hialpa huórium Mañe / eþ ad Menn villdu ad eins þiggia hans Hialp. Þar þyrer skalltu vakta þig / ad þu ecke vanheidrer so Gud / z giórer so hans Hia-

ta

ka kudgallt/ad hann elske eirn enn hare an
nan. Slijkt Hiarta beþur Gud ecke/ Hu-
ör sem styr sier til hans/ Bidur hann vm
Hialp aþ Hiarta/þeim vill hañ hialpa/
hann hyrar ecke vm huört Madur heþur
þad þorþient eda ecke/ Þuiad hans Hialp
er Myskunarhialp/ Þar vm skalltu hu-
ra þegar þu Bidur/þa muntu verda laus
og lidugur vid þessa Freistne/ Þuiad so
sem vier siaum hier/ Kuinnan lætur ecke
aþ/hun helldur þast á sinne Bæn/ og þar
vor Herra Christur geingur jnn j eitt Hws
þa verdur hun ecke epter wte/hun hleyp-
ur jnn j Hwsed/og so sem hun haþde ad-
ur hropad epter hönum/ so hleypur hun
nu riett þyrer hans Augu/þellur nidur þyr
er hönum og Bidur/ seigande/ Herra hial
þadu mier/ Þetta er vijst Teikn og Mer-
ke/ ad hun er ocþasöm j sijnu Hiarta vm
hans Hialp og Hiastod/ þo þad være a
hans Ordum ad heyra/ ad hann villde
ecke hialpa henne.

Hier kiemur nu hin þridia Freisting sem
er miög þung/ ꝛ ogiarna vill Burt vijkia.
Þuiad vor Herra Christur seiger/ Þad er
ecke þagurt eda tierlegt/ ad taka Brand
Barnañа og kasta þui þyrer Hunda. Ad-

ur

uꝛ fyrre giörde hann greinar mun a mille ſinnar Perſonu og hennar/ hañ være kom en vegna Gydinga/ hun være heiden/ þar fyrer hefde hañ ecke þar med hana. Eins Freiſtne þa reynum vier optſinnis/ oſſ þiker ad Gud ſie ödru vijs til Sinnis vid oſſ eñ adra. Eñ hier giörer hann greinar mun a mille hennar Perſonu & Gydinga/ Gydinga jafnar hñ vid Börn a Bænũ/ eñ Kuiñuna vid eirn Hund. Þetta er ein þũg og ſtor Freiſtne/ og miög þungt Slag/ & kiemur af þeirre Freiſtne ſem næſt var vm talad. Þuiad fyrer þa Grein ad vier vit um þad/ huörnen vier höfum ſtygt Gud og modgad med vorum Syndum/ & ecke lifad epter hans Orde og Vilia/ þar af kiennur þ/ ad vier erum efaſamer j Bænenne/ & erum hrædder/ ad Gud mune hafa Ovilld a oſſ. Lijka ſo ſem þeſſe Kuinna ma nu taka þſſe Ord til ſijn/ Þu ert Hundtijk/ værer þu Barn j Bænum/ þa munde Hwsbonden breyta vel vid þig/ & taka þig ad ſier/ Eins ſkiedur þad & eirnen oſſ/ þegar vier vpp hefium vorar Syndur/ og bidium Gud vm Nad & Hialp/ Enn ſem vier komum þar ad/ og hugſum vm huilijker aumer Syndarar vier erum/

og

* huad þunglega vier hößum styggt Gud / þa kiemur strax þesse Hugan j Hiartad / Þijn Bæn kiemur til einskis / þu ert overdugr ad Gud bænheyre þig eda hialpe þier / þu ert Hundur j hans Hwse / þu þarßt ecke ad vona nie vænta / ad þu muner ßa hier nöckud gott / Þu ert ecke hans Barn / helldur eiñ Hundur / et ct. Þuiad vor Skynseme hun plægar oss / hun dæmer / ad þ gange eins til hia Gude so sem hia oss Mönnonum / Vier erum hneigder til ad giöra þeim gott / sem vered haßa epter vorum Villa / Enn hina sem oss haßa giört j mote / þa hötum vier og veitū þeim ecke Hialp.

Enn huörnen skulum vier haga oss og hegda j þuilijkre Freistne ? Þad verdur oss hier agiætlega kient og ßyrer Sioner sett. Kuinnan heyrer og skilur þad vel / ad vor Herra Christur jaßnar henne vid Hundtijk / sem ecke gilldur par / hia einu Barne j Hwsenu. Huad giörer hun þa ? Lætur hun þar ßyrer aß ad bidia ? Eßast hun þar ßyrer ? Nei / ßyrst er þetta eitt Hiartans haleit Audmykt / ad hun jatar * medgeingur ad hun sie ein Hundtijk ad reikna hia Guds Folke. Þar næst helldur

 hun

hun ſier enn nu faſt vid Herrans Chriſti Myſkun/og vonar viſſeliga ad hañ mune hialpa ſier. Þetta er nu ſu rietta Liſten ſem vier eigum ad læra hier/ og huørka vier eigum ad jdka. Naar hellſt ſem þier kiemur j Hug og Hiarta/ad þu ert eiñ aumur Syndare/ og haber giórt þad og þad/og ſiert ecke verdugur ad Gud ſkule hialpa þier/eda gieba þier eitt og añad/ þa varaſt þu ad læta þar fyrer af Bæn þinne/ og læta Tru og Trauſt til Guds Nædar falla/eda ad ønguu verda/Seigdu helldur ſo/Drotten/þad eru Sanninde/ Jeg er eirn aumur ſyndugur Madur/ Jeg er ecke verdugur ad þu ſkuler gieba mier eitt eda annad/Ef þu villder launa mier epter Tilverknade mÿnum/ þa hef jeg forþient heluñſkan Elld/Enn þo ſamt/ huórnen ſem jeg er miñnar Perſonu vegna/ þa veit jeg þad ad þu ert Nædugur og Myſkunſamur/ og villt fyrer Chriſtum Bænheyra oſſ. Vid þa Von vil jeg blÿfa/þar vppa true jeg * treyſte hialpa þu mier fyrer þÿns Nafns ſeker.

Þetta er nu ſu rietta Liſten/huør oſſ verdur kiend j Pſalmenum/Drotten hefur ecke þocknan a Styrkleika Heſtſins/ eck/ hell

helldur a nöckurs Mans Beinum/Drottæ
en hefur þocknan a þeim sem hañ ottast
og vona til hans Myskunar. Vegna voræ
ra Synda meigum vier vel vera skielfder
og hrædder/og audmykia oss/Þar a moæ
te/ med þui Gud er Myskunsamur/ þa
skulum vier hafa eitt örugt Hiarta og
vissa stödduga Von/Þetta heiter ad heidæ
ra Gud riettelega/og Helga hans Nafn
nær vier snuum oss til hans af öllu Hiaræ
ta. Og þo vier sieum eñ nu aumer ꝛ synæ
duger/þa skulum vier þo hugga oss vid
hans Nad/ ad hann fyrer eckert/ og allæ
einasta fyrer Nafns syns saker/mune hiæ
alpa oss.

Sia/Þañen hefur þu hier eirn agiætã
nytsamlegan Lærdom / huar fyrer vier
eigum daglega ad Bidia hier j Heime/og
huörnen vier skulum slæ fra oss þm Freistæ
ingum/ sem til kunna ad falla/ og vora
Bæn vilia hindra/Þuiad Gud vill breyta
vid oss eins og hann breytte vid þessa
Konu. Nær sem vor Neyd ma lijda nöckæ
urn vndandratt eda Bidlund/þa hialpar
hann ecke so jafnsnart/ hann vill reyna
Tru vora/ huört vier vilium blijfa stödæ
ugier og stadfaster vid hans Nad ꝛ Myæ

skun/ᵻ hvört vier vilium trua hans Grädum og Fyrerheitum/eda voru eigenlegu Hugbode/Þar þyrer skulū vier hallda oss vid Orded/lꜳta ecke af ad bidia/ᵻ vera stadfaster j Bæna akallenu eins og þesse Kuinna var/ enn þo vort Hiarta afseige oss Hialp alla vegna vorra Synda/ᵻ vore Overdugleiks/ Þetta kallast ad bidia riettelega/og ef vier so bidium/þa verdum vier visselega Bænheyrder.

## Bænen.

Heyr Herra Gud Himneskur Fader/Vier akollum og bidium þig/ad þu þyrer þinn Heilaga Anda vilier stödug giöra vor Hiörtu/og giöra oss vissa j Trunne og Vonenne til þinnar Nꜳdar og Myskunar/Uppa þad/ad enn þo vier höfum nog Efne til þess/ad skielfast og hrædast/vegna vorrar Samuisku/Syndanna og vors Overdugleika/ þa veit þu ess ad vier med þessare Canversku Kuinu höllldum oss fast vid þijna Nꜳd og Myskun/og væntum oss apenlega j hia þier Hialpar j öllum Freistingum og vorum Haskasemdum/ þyrer þinn Son Jesum Christum/ Amen.

# Þridia Sunnudag j Føstu Evangelium Luc. XI. Cap.



OG Jeſus hañ rak vt Dioꝛful/ þañ er Dumbe var. Og þad ſkiede/ þa Dioꝛfullen var vt faren/ ad hinn Mꝏllauſe talade/ og Folked vndradeſt þad. Enn nockrer vt af þeim ſøgdu/ Fyrer Belzebup Dioꝛfla Hoꝛfdingia þa drijfur hann Dioꝛflana vt. Adrer freiſt udu hans/ ꝛ leitudu af honum epter Teikne af Himne. Enn er hann ſa þeirra Hugrennigar/ ſagde hañ til þeirra. Huꝛrt Rijke ſem j ſialfu ſier er ſundurþyckt þad mun eydaſt/ og huꝛrt Hws mun yfer annad hrapa. Og ef Andſkoten er j

sialþum sier sundurþyckur / huørnen ma
hans Rijke þa standast / þyrst þier seiged
mig þyrer Belzebup vt reka Dioþlana?
Nu eþ jeg a þyrer Belzebup vt ad reka
Dioþlana / þyrer huørn verda þeir þa
aþ ydrum Sonum vtreknet? Þar þyrer
verda þeir og ydrer Domendur. Enn eþ
jeg rek vt Dioþlana med Guds Fingre /
Sannlega kiemur þa Guds Rijke til yd
ar. Nær ed sterkur Heruopnadur vard-
ueiter sitt Andyre / þa er allt med mak
huad hann a. Enn eþ annar hønum yþ
ersterkare kiemur og yþeruinnur hann /
þa þletter hañ hann øllum Herklædum /
a huør ed hann treyste / z j sundur skipt-
er so hans Herþange. Huør hañ er eige
med mier / sa er a móte mier / og huør hañ
samañ saþnar ecke med mier / sa sundur-
dreiþer. Nær ed ohreinn Ande þer vt aþ
Mannenum / ræþar hann vm þurra sta-
de / leitar ad Huijld og þinnur ecke / þa
seiger hann. Eg vil aptur huerþa j Hws
mitt / huadan jeg þor vt. Og þa hañ kie-
mur /

mur/ pinnur hann þad med Soplimum hreinsad/ Þa þer hann/ og tekur med sier sio adra Anda sier verre/ og sem þeir eru þar jnn komner/ byggia þeir þar/ og verdur so þess Mans hid seinasta verra hinu þyrra. Enn þad skiede þa hañ talade þetta/ ad Kona nøckur vt aþ Folkenu/ hooþ vpp sijna Raust/ og sagde til hans. Sæll er sa Kuidur sem þig bar/ ꝛ þau Brioſt er þu myllter/ Enn hann sagde. Nuad vm þad. Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord/ ꝛ varduetta þ.

HEssa Dags Euangelium heþur tuær Greiner/ Su þyrre er eirn Lærdomur/ huórnen vier skulum þæra oss j nyt þtta Dasemdar verk oss til huggunar og betrunar/ ad vor Herra Jesus hialpar hier þeim auma Manne sem seten var aþ ohreinum Anda. Añar Lærdomur er ein Aminning/ ad eingen sie atþugalaus/ helldur siae sig vel og þorsiallega vm kring/ og vakte sig þyrer Dióflenum/ med þui hañ linner þui alldrei/ ad huar hann er eitt sinn vt reken/ þa leitar

 hañ

hann vid ad koma þangad aptur. Og huar hellst sem Menn eru so vgglauser ꝛ athuga litler/ og sia sig ecke vel og forsiälléga fyrer j soddan Voda og Haska/ þa verdur þeirra Manna þad hid seirna verra enn þad fyrra. Þuiad þesse Ovinur hefur þa Art og Natturu/ ad huar hann kann ecke ad orka nöckru einsamall þa tekur hañ med sier adra sijna Stallbrædur þeir verre eru enn hann sialfur: Þui liggur hier stor Magt a/ ad Mēnn siae sig vel vm kring/ bidie Gud og befale sig hönum/so sem vier skulum frammeig ꝛs fa ad heyra.

Gudspiallamaduren Lucas seiger/ ad sa Dioffull sem Christur rak hier vt hafe vered Mallaus/ þad er/ hann hafde so fangad og herteked þessa auma Mans Tungu/ ad hann kunne ecke ad tala med henne so sem adrer Menn. Mattheus leggur og þetta hier til/ad hann hafe vered lijka blindur / og ad Christur hafe giört hann bæde siaanda og talanda. Slijkt er miög hrædelegt ad heyra/ ad sa vonde Andskote skal hafa soddan Magt ꝛ Valld yfer Manneskiunne / og so þunglega skaña og fordiarfa auma Mannlega skie=

Skleprnu.

Enn Gud lætur slijkt skie/stundum til Straffs og Refsingar þeim ed syndgast hafa/stundum til Epterdæmis/ z ödrum Mönnum til Viduörunar/ ad þeir skule læra/ Fyrst/huad haleit Guds Gafa þ er ad vera heill og heilbrigdur a sijnum Lijkama/ og ad Menn þacke Gude þar fyrer af Hiarta/sem so Myskunsamlega hefur þa vardueitt fra þeim jlla Ovin Diöflenum/Þar næst vppa þad/ ad þeir frammeigis bidie Gud vm nadarsamlega Verndan og Vardueislu/ lijke j Otta Drottins/ og fordest Syndena/ so sa hinn vonde Ovin ecke skule Syndarennar vegna fa Makt til ad skama og fordiarfa oss. Huiad huörsu mattugur og skadsamur sem hann er/ þa kann hann þo ecke ad giöra skada/ nema Gud leyfe hönum þad. Stundum lætur Gud þar med reyna sijna christna Menn/ z freistar þeirra þūg lega/ til þess ad hamla Syndenne med Krosse og Motgange/z ad þeir skule jdka sig j Trunne og Vonenne/Enn optast er þesse Motgangur Syndanna Straff og Refsing/huar med Gud lætur sia z merkia sijna Reide j giegn Syndenne/ og vill

aminna offtil ídranar / Og nu med þui ad huor Madur hrædest soddan Straff þa skulum vier forðast Synderner og liþa j Guds Otta.

So stendur nu þetta Epterdæme hier vm þennan auma Man sem seten var af Dioflenum / so ad vier lærum hier af / ad þeckia vorn Veykleika og vora Eymd / þar med og eirnen Magt og Grimd Ouinarins / og hans hreckvijsan Vilia / og forðast þar fyrer Syndena / en liþa j Guds Otta. Vier skulum og eirnen merkia þ ad Diofullen plagar ecke so alleinasta ad yfer falla og fordiarfa Lijkaman / Og slijkt syrest miøg hrædelegt og hryggelegt / og sannlega er einskis Mans hiarta so hughraust / ad hann hrædest ecke og skielfe efter þar vid / þegar han sier nockurn af Dioflenum lijkamlega seten og plagadan.

Enn auk þessa þa hefur Diofullenn annan plagsid / so ad Menn verda andlega af honum setner. Þad syrest ecke nie þiker so miøg hrædelegt / enn þad er þo myklu haskasamlegra og verra enn hitt fyrra / Þuiad þad kan til ad bera / ad Diofullen hafe valld a Lijkamanum / plage hann og þijne / epter þui sem han vill / en

yfer

yfer Sælunne hefur hũ ecke valld / so sem
opt ber til/ad marger eru setner af Diöfl-
lenum lijkamlega / og þegar þeir hafa
nöckra Roo og Hüjld / þa bifala þr sig
af Hiarta Gude Almattugum/tilbidia ꝛ
akalla hann/og heyra giarna Guds Ord
og medtaka þad. Slijkt er liost vitne/ad
Sathan hefur þa ecke Valld nie Magt
yfer Sælunne / ellegar giörde hañ ecke añ
ad enn ad tala Hadungar/forakta Guds
Ord/ꝛ lasta hans Nafn oendanlega:

Þar fyrer er þad myklu stærre ꝛ þyng-
re Olucka og Plaga / þegar Lijkamen er
heilbrigdur / eñ Andskoten hefur herteked
Mañsins Hiarta/mz Agirnd / Reide/Ha-
tur / Saurlijfe/Ordsins forsman/ꝛ Gud
lastan/ og ödrum þuilijkum Syndum/so
sem vier siaum hier liost Dæme a þeim
Phariseis og Skriftlærdu / Slijkt giöra
og lijka Papistar a þessum Deige / Þeir
hata ecke nöckurn hlut a Jördunne so sem
Evangelium og Guds Ord/og være þm
þad mögulegt/þa fordæmdu þeir þad/
og köstudu þui a Augabragde nidur j
Heluijte. Þetta heiter ad vera tiettelega
seten af Diöflenum/þuiad hier fylger ep-
ter eilijf Glötun ꝛ Fyrerdæmning/ꝛ Mañ

eskian

ǽskian kann ecke meir eda pramar ad verda teingd og bunden vid Diöpulen enn so/ þegar Madr tekur til ad hata og spotta Guds Ord/ Soddan er Diöpulsins eigenleg Art ꝫ Nattura.

Og hier þyrer nepner S. Pall Diöpulen ecke alleinasta Höpdingia/ helldur og eirnen Gud Heimsins. Þuiad huar hellst sem Gud tilstediar ꝫ leyþer/ þar hepur hn̄ ecke alleinasta Magt ꝫ Valld yþer Lÿkamanum Godze og Peningum sem hann lyster/Helldur naer han̄ og so jnn j Hiartad/ og vppueku r þad j giegn Gude og hans Orde/ han̄ drÿþur þad og dregur j Syndena/han̄ styrer ꝫ stiornar þui so sem han̄ vill/þuiad hann hepur þulla og alla magt ꝫ allt valld yþer þm Vantruudu.

Þar þyrer er miög naudsynlegt/ ad vier hugleidum slÿkt/og sem þyrr var sagt/ þryniunt oss med Bæn og Otta Drottins so Diöpuelen giöre oss ecke skada a Sælu eda Lÿþe. Þetta er so stuttlega sagt/ so sem til Vidurkinnar j giegn þessum Ovin Diöplenum/so vier vöktum oss þyrer hönum. Nu viliunt vier skoda þa Lærdoma/sem þetta Euangelium hepur jnne ad hallda.

Gud

Gudſpialla Madurenn Matthæus ſeig-
er/ ad þegar Folked ſa þetta Daſemdar
verk/ þa haƀe þad ſagt/ Er þeſſe ecke
Dauids Sonur ? Pad er/ Hañ er viſſele-
ga ſa ƀyrerheitne Meſsias. Þetta lijkade
þeim Phariſeis illa/ Og þeir ſǫ́gdu/ ad
hañ være Galldra madur/ + þau Daſem-
darverk ſem hañ giǫ́rde þau giǫ́rde hann
aƀ Diǫ́ƀulſins Hialp og Krapte. Þeſſa
Gudlaſtan villde Chriſtur ecke þeigande
lijda/ Þuiad Gudlaſtan er hvǫ́rium chriſt
num Manne ſkylldugt ad ſtraƀƀa/ og nid
ur ad þagga/ og ƀorſuara Guds Dyrd +
Æru/ og ad mæla i mote Gudlǫ́ſtunar
mǫ́nnum. Þar ƀyrer þaggar hann nidur
ſoddan Gudlaſtan med ſǫ́ñum rǫ́kſemdar
Greinum/ ad Diǫ́ƀull ſie ecke oſamþyckur
vid ſialƀan ſig/ hann ſtyrke ecke til ſijns
Skada eda Fordiǫ́rƀunar/ Þar ƀyrer eige
þeir ǫ́druvijs ad virda þennan Giǫ́rning/
og læra aƀ hǫ́num þad ſem betra er/ ſem
er/ Ad med þui þad er vijſt ad Diǫ́ƀullinn
verdur vtreken aƀ Chriſto vorum Herra
ƀyrer Guds Fingur/ þad er/ ƀyrer Gud-
domlegan Almættis Krapt/ þa ſkule þeir
haƀa þa Von/ og þad Trauſt/ ad Guds
Ryke ſie komed til þeirra.

Þetta

Þetta hefur ꝍ ꝛ alla tijma vered Herꝛrans Jesu Christi Embætte/ strax epter Fyrerheited vtgiefed/ad hañ skyllde merꝛia j sundur Höggormsins Höfud/þa hefr hañ alla tijma verndad ꝛ vardveitt sijna Christne/ fyrer hennar Ouinum illum/ so sem Historiur hins gamla Testamentis beuijsa/ huorsu ad hann hefur vid magt halldeð fromum Predikorum og Spaꝛmönnum/ afstyrt Vijkingum og Tyronnꝛum/niðurþryckt Skurgodadyrkan ꝛ bölꝛskum Lærdome/ auked og epltt Gudlega þionustugiörd og þann rietta og sanna Lærdom/ Hann vtleidde sitt Folk af Eꝛgiptalande/Hañ söckte Pharaone j Hafꝛed rauda og öllum hans Her/hann vernd ade Spamannen Eliam dasamlega/ Hñ liet drepa Jesabel ꝛ Baals Presta. Þesse Verk og mörg önnur fleire eru Herrans Jesu Christi Giörningar/ med huörium hann hefur hindrad Diöfulsins Asetning/ og auked og efllt sitt Rijke/Enn j þañ tijꝛma var hann osynelegur/og þetta skiede allt heimuglega/ og ecke vissu Menn af slijku/ ef ad Skrifften kiende oss ecke þ/ ad hann ætte ad sundurmeria Höggormꝛsins Höfud/ꝛ ad hañ være sa Steirn sem

Jsraꝛ

Jsrael epterfylgde j Eydemörkenne/et cet. So er nu vÿst/ad huad hellst nöckurn tijma skied heþr Dióflenum j mote/þa heþur Christur giört þ/so sem S. Pall lioslega seiger 1 Corinth. 10.

Eñ nu hañ er Madur orden/⁊ er fæddur af Jomfru Maria/ þa fremur hann þetta Embætte openberlega/ so ad huör Madur ma sia þar vppa/ad hann er afsagdur daudlegur Ovinur Dióflsins/ og setur sig med Magt hönum j mote. J Eydemörkunne berst hañ vid Dióflen og hans Freistingar j heila fioruttÿge Daga og vÿsar hönum vm sijder fra sier/Huar hellst fatækar Mañeskiur voru af Dióflenum setnar/eda j annan mꜵta skadadar a Lÿkamanum med Siukdome og ödrum Plagum/ þa hialpade Herran Christur þeim. Og þo Dióflullen være styrkur og hreckuÿs/þa er þo Christur styrkiare/yfervinnur hañ og sigrar/ Ja ad vÿsu/lÿka eirnen þegar hñ liet Lÿflæta sig a Kroſſenum/Þuiad ꜵdur enn þrÿr Dagar voru lidner/þa braut hañ nidur Heluÿte/batt Andskotan med myrkranna Hleckium/og þad gieck j allan mꜵta so til sem Christur seiger hier/ Ad hañ er sa sterkare sem

Ovinen yꝼervinnur/ſuipter hañ hans Her klædum ſem hann treyſte vppa/og ſkipter hans Herꝼange / Þuiad hann er daudlegur Ovinur Dioꝼulſins/ og lætur eckert epter hónum.

Hingad til heꝼur Dioꝼollen rijkt j Heimenum og vardueitt ſijna Høll + Fordyr ſijnar/ſat med ro og kyrd/ og var ꝼyrer vtan Oꝼſokn og omak. Eñ nu er þad vte hans Rijke heꝼur nu enda/ Hans Magt er ꝼra hónum teken. Þuiad ꝼyrer Euangelij Lærdom ſaman ſaꝼnar Guds Sonur ſier chriſtelegre Kirkiu/henne gieꝼur hann ſinn Heilaga Anda/ſo ad hun liꝼer epter Vilia Guds og er hónum hlyden/+ lætur Dioꝼulen ecke leida ſig ſo ſem ꝼyrr meir ſkiede. Hun heꝼur nu Guds Ord + Anda þar helldur hun ſier vid/nidurkæꝼer Syndena/+ yꝼervinnur ſo Dioꝼulen ꝼyrer Hialp Guds Ords + Anda/ſo ad hann hlytur ad læta vndan/+ gietur ecke giórt nie ꝼramkuæmt huad hañ vill. Hier til þiena oſſ og ſtodar ſu Heilaga Skijrn/Euangelium/Kuølldmaltijd Drottins / ſu Heilaga Aꝼlauſn. Þad allt ſaman eitt med ódru er til þeſſ innſett og ſkickad/ad Dioꝼulſins Makt ſkule minkaſt og eydaſt

og

og ad vier ecke skulum vera leingur vnder hans Vallde/helldur j Guds Nadar Rijke/ vnder hans verndar Skiole.

Slijkt Beuijsar og audsyner vor Herra Christus hier/ og lætur Satan vijkia fyrer sier. Þar fyrer vill hñ vier sieum stödduger j Trunne + Voneñe/ + hyggum oss j hñs Rijke. Guds Rijke/seiger hañ/er ad sönu komed til ydar/sm̃ hñ villde so sagt hafa/ Hingad til hefur Diöfullen rijkt + hapt framgang/Eñ halldið ydur til mijn medtaked mig/ trued mijnu Orde/ þa skal Diöfullen önga magt hafa j mote ydur / Hann er miñ Fange/ jeg hef teked hans Herklæde fra hönum/ þ er/ jeg hef ad öngvu giört hans Magt/ med þui jeg hef Bitalad + Borgad fyrer ydar Synder/ Þuiad huar hellst Synden er j Burt/ þar hefur Satan önga Magt framar/ og jeg skipte Herfange/ þad er/ Allt huad Satan rænte fra ydur j Paradijs / þad vil eg giefa ydur aptur/ so þier skulud ecke deyia / helldur hafa eilijft Lijf/ Þier skulud nu ecke leingur vera Þrælar Syndarennar/ + giöra huad hun vill/ þier skulud fa minn Heilaga Anda/ hann skal vijsa ydur og leida epter mijnu Orde/ og

